Lidsemd til Frelsunar; Enn vitid hvør einn hradur, af hinum (eg æskil), heim aptur hverfe Madur, Hybyla sinna til.

10. Gedeon Flock þann frijdann, fyrer þad efla ried, Vister þeim vallde sijdann, vænum Bæsunum med, og Mottenn aptur sagde: Ad þeirra Herbwdum þu, statt upp og brædt ad bragde, beinleides gack þu nu.

11. Ef þu Ottast ad fara, einn med þier taktu Svein, Heidingia hradt til Skara, so heyrer a þæ Grein, hvad fyrer hellst þeir tala; Hann foor og Pura riett, þængad strax þæ æn Dvala, þeir hofdu Skialldvord sett.

12. Dviner um Bil þetta, (Ord tiæ so Ritningar,) eins sem Mergd Engesprettna, i Dalnum læu þar, og Fiolde þeirra Ulfallda, Oteliande var þæ, lijk var Mergd sw margfallda, mestum Sande vid Siæ.

13. Nu sem Gedeon gladur, greidt þængad komenn er, einn took til Orda Madur, og ødrum þanneg tier: Eg feck Draum einn ad reyna, i Svefne þar eg læ, og Byggbraud eitt alleina, øskubakad eg sæ.

14. Hvert ed vallt hradt ad lijta, til Herbwdanna i stad, Manna Madianita, mest þo Landtialldinu ad, og þvi umvellta nædø, so uppæ hid Nedra var, Landtiallded vort æ Lææde, læ so flatt epter þar.

15. Aptur hinn annar sijdann, andsvarad þanninn sær, þad mun ei annad þyda, enn

þad

þad Gedeon slær, Madianita alla, og þeirra Her i Stræ, þvi DRottenn Himna Halla i Hond hanns gefur þa.

16. Sem Gedeon sialfur tiedur, soddann Draum heyra feck, og hanns Utlegging medur, aptur til sinna geck, þegar strax þa ann Bidar, med þijdre sagde Trw: Ovine DRottenn ydar, i Hond vill gefa nu.

17. Þessum þrim Hundrud Monnum, þria skipte hann Flocka i, hvorium feck hann ad sonnu, hier med Baasunu frij, og med Blise, Krws eina, i Hond þeim liet og tier: J ollu Adferd hreina, eins sem eg, brwkid þier.

18. Þegar þeir þangad koma, Þioodenn sem Heidna var, i Lwdra aller hliooma, enn brutu Krwsirnar, hardt mille Handa sina, hafande Blis a Ferd, hier er (so hvor nam inna) HErranns og Gedeons Sverd.

19. Heidingiar hradt uppvakna, hrædder vid þesse Svor, lijkt sem wr Rote rakna, og ræktu Flootta-For; Og sia, DRottenn tilsette, Sverd hvor þar ødrum moot, um̃ Herenn allann rette, med Atvik Heiptar sliot.

20. Ad Beth-Sitta Zeredatha, Sveit heiden flyde þvi, til Mehola mattu rata, mjog nærre Tabath frij, enn Gedeon og hanns Lijder, aller sem voru hier, raku þann Flock sem flyde, a Flootta undann sier.

21. Ephraim sijn Ord senda, sialfur Gedeon ried, ad Vatned allt til Enda, inntæke

og

og Jordan med, fyrer Myg Madianita, ad mætte ei yfir um̃ nœ, aller strax ofann flijta, Ephraims Menn sier þœ.

22. Allt Vatned ad BethBara, inntaka og Jordan fliott, so eingenn yfirfara, af Heidenne fieck Drott, hier med þeir tvo Handtoku, Hofdingia Ovinum frœ, og þeim i Daudann Oku, epter þad Steinum œ.

23. „ Oreb œ Orebs Steine, afliifa giör-
„ du þvi, enn Seb, (so sem eg greine) Sebs
„ Þrygu drœpu i, og Hofud af þeim bœd-
„ um, yfir Jordan med sier, til Gedeons
„ bera gœdu, GUde sem Þacker tier.

24. „ Himna Brauded helgasta, hialpa
„ þu JEsu mier, fyrer Trú Hiartans fasta,
„ Frelsid uppausa af þier; Gef mier þess
„ jafnan giæta, Glaskere ber eg i, Fiesiod-
„ enn minn hinn mæta, mig virdstu upp-
„ lysa þvi.

# 8. Psalmur.

## Af Mórkaste Gedeonis, hanns Virding, Ost, Børnum og Dauda.

Ton, Nu bid eg GUd þu náder mig.

Ephraims Lijdur um̃ þad Bil, ofann komu Gedeons til, og vid han̄ þwngu Þrœttan hœ, þvi hann hefde ei kallad þœ, i þetta Strijd? Enn Gedeon greidt, gaf þeim soleides Andsvar, neitt: Hvat

fyrer

fyrer vilied þessa þier, Þrættan uppvekia mote mier?

2. Er ei Vijnkvistur eiñ til Saũs, Ephraims betre enn þessa Lands, Vijnyrkia Abi-Esers oll, og þvi giored þier slijk Afoll? Eda eru ei ydar verd, oll Verken meir enn sialfs mijns Gierd, þa þier handtookud heidna þa, Hofdingia Oreb og Seb þeim fra.

3. So lægdest þeirra Þrættan stoor. Þadann Gedeon burtu foor, ad Jordan og þar yfer uñ, ollum med sijnum Hermonnum, sem var fyrr hermdu Hundrud þriw, hann rak Floottann med þessu nu, or þreitter Suchoth hielldu hiaa, hann bad Stadarenns Foolked þa:

4. Lijd mijnum æfed lijted Braud, Lwa so tape og Hwngurs Naud, so eg Sebah og Zalmuna, sæke epter þess hardara; Enn þeir ypparstu i þeim Stad, aptur strax greiddu Svarid þad: Eru Heidinna i Hondum þier, Hvefar so Braud wtgefum vier?

5. Nu vel! Gedeon gefur Svar: Ollo þa lætur Hendur mijnar, Sebah og Zalmuna sel-iast i, sundur Holld ydar þreskia frij, eg vil Þyrnum og Þistlum med, þegar ad sooddann allt er skeð. Til Pnuel sijdann helldur hann, hermde allt eins vid Stadenn þañ.

6. Allt Foolk i Pnuel Andsvor kyrr, eins greidde og Suchoths Lijdur fyrr; Enn hann sagde þa allteins vid: Aptur nær hijngad kiem med Frid, ydar Stad þennann eg þa vil, all-

aũ

ann slaa nidur Jardar til, so ad berlega Sioonum med, siaaed af DRottne slijkt er sked.

7. J Karkor heidnu Kongarner, komner voru og þeirra Her, hartnær Pwsunder simtaan fraunt, enn fallid hosdu i Strijde samt, hundrad og tuttugu Pwsund þo; A þann veg Gedeon aptur droo, hvar Menn Tialldbwder byggdu traust, bioo þar saa Lijdur Ottalaust.

8. Her þann Gedeon hardt nam slaa, hiner þegar i burtu naa, Sebah og Zalmuna flija sliott, Flottann rak Gedeon epter skiott; Hier med hann lijka handtook so, Heidingia þessa Konga tvo, enn Her þeirra allan Hrædsla lijr, heim þaa tilbaka aptur snijr.

9. Sialfsa Uppraas Soolar fyrer, til sagdrar Borgar þaa komenn er, einn Svein handtook og adspurde, enn hann honum uppskrifade, Herra og Olldwnga i Suchoth senn, siotiju og sio ad Tolu Menn, til Stadar Foolksens helldur heim, hann so mælande Ognar þeim:

10. Sebah og Zalmuna siaaed hier, sem ædur hæddud mig fyrer, eg þaa Fædslu seck ydur beidt, ormagna fyrer Lid mitt þreytt, Pyrnum sijdann og Pystlum med, þeim kiende ad stilla Munn og Ged, og Pnuel braut þar einninn hann, i Grunn, enn Foolkid drepa vann.

11. Hann spurde Konga heidna senn: Hvorium lijker voru þeir Menn, sem þier i Thabor felldud fraa, Fiorve? Þeir giordu ad ansa þaa: Ydur lijker aa allann Veg, eins og Konungs

Born

Born prijdeleg, hvor þeirra var. Enn hann þa kvad: Herme eg Brædur mijna þad.

12. So sañarlega sem lifer, sialfur DRottenn! Ef hefdud þier, lated þa vera Lijfe a, Lijf ydar skierdt eg hefde ei þa. Sijdann vid Jether Son sinn kvad: Med Sverde drep þa bada i stad; Enn Sveinnenn rickte ei Sverde þar, sa þvi hræddur og Barn eitt var.

13. Sebah og Zalmuna sogdu nu: Siälfur Gedeon uppstatt þu: Eins og Madurenn er til sanns, epter þvi reyneſt Kraptur hanns. Sijdann sloo hann þa Sverde med, sialfur i Hel, enn taka ried, Haalsspeizgur allar hvoriar þar, hast hofdu þeirra Ulfalldar.

14. Nockrer Israelitar þa, Ord vid Gedeon þesse tia: Yfer osß Herra æ þu vert, eiñenn Son þinn, og hanns Son bert. Enn Gedeon þeim ansa vañ: Ydar eg heite ei Stioornar-Mann, helldur DRottenn þad. hærstur sie, Himins og Jardar Raadande.

15. Eins Hlutar vil eg æskia mier, af ydar Hende, Gedeon tier, Ennisspeingur þær allar sa, ad Herfange sem giordud na, þvi yfer „ unner Oviñer, Ismaelitar voru hier, Gull„ hlader brwka Ennum a, af þvi sparade ei „ Mwgur sa.

16. „ Þeir sogdu: Gefa vilium vier, vænt „ Klæde sijdann tooku sier, og hvor einn lagde „ uppa þad, Ennesspeingur sem hann umbad, „ Þwsund Gull-Sikla og sio hundrud, Suñ-

„ aũ ad Vigt er uppritud, fyrer utan Klæde
„ og Kediurnar, sem Kongar bœru og Ulf-
„ alldar.

17. Lijf-Kirtil Gedeon greidt med saũ, giør-
de af þvi og setia hann, i sialfs sijns Stad til
Ophra ried; Jsrael framde Hoor þar med,
hønum sialfum til Hneixlunar, og Hwſe hanns
lijka þetta var. Madianita Offsookn dvijn,
upphoofu ei framar Høfud sijn.

18. Fridland Jsrael fieck af Lijd, fiørutiju
uũ Ara Tijd. Son Joas Gedeon so burt-
droo, ad sijnu Hwſe, og þar bioo, siøtiju ætte
Syne frials, sem af haũs Lendum komu sialfs,
einn Fridlu-Son ad auke þar, Abimelech sem
nefndur var.

19. J goodre Elle Gedeon doo, grafen var
hann til Ophra þo, af Jsrael, fyrer utan Tof,
i sialfs sijns Fødurs Joas Grof. Epter Ge-
deon andadann, Afgudadijrdkun fremia vann,
Jsrael BaalBerith med, blygdmarlaus med
þrælyndt Ged.

20. A sinn DRottenn ei minntust meir, i
megnre Blindne geingu þeir, hvor þa Ovina
Houdum af, hafde opt leyst og Myskun gaf;
Einnenn Gedeons Afkvæme, Jsraels Þiooden
forgleymde, þo margt og gott þeim giørde haũ,
gœlaust Foolk þess ei minnast vann.

21. Af Hiartans Grunne eg bid þig, O
minn JEsu! Bænheyr þu mig, Hneixlis
Syndum mier forda frá, og Flekkan Holds

nær

nær ſtríder á; Støduga Von og Trúar Trauſt, til þinnar Náðar efalauſt, láttu mig alltíd hafa hreint, hvørskyns Mootkaſt ſem fæ eg reynt.

# 9. Pſalmur.

Af Abimelechs Brædra-Dráپe, Stiórnan, og íllum Dauda.

Ton, Adams Barn, Synd þín ſo var ſtór.

Sem nu Gedeon ſæll burtdoo, Son hanns Abimelech ſig bioo, til Sichem bradt ad Bragde, vid Moodur-Brædur ſijna ſa, ſialfur og alla Ættmeñ þa, talade ſenn og ſagde: Fyrer allra Manna Eyrum hier, i Sichem, bid eg, hermed mier, hvørt betrá heita mege, ad JerubBaals Syner ſenn, ſiotiju aller Stioornar-Menn, ydar nu vera eige.

2. Ellegar einn einaſte Mann, ydar Stiornare ad verde hann, jafnframt þenked uñ þetta: Ad eg Holld ydar er og Bein; Enn hanns Brædur þau Svoren ein, Sichems Lijd ſegia af lietta. Til Abimelechs hneigduſt hradt, Hiortun þeirra, og ſogdu gladt: O ja! hann er vor Broder. Silfurpeninga ſijdañ greidt, ſiotiju hm̃ fengu veitt, wr BaalsBerīths Sioode.

3. Lauſingia med þvi leigde ſier, uñ Landed Abimelech og fer, til Ophra med þá alla,

 ſijna

ſijna Brædur þar ſiælfur hann, Syne Gedeons drepa vann, ſiotlju ſo giorvalla, æ einum Steine; Enn Jotham, yngſte Son Jerub-Baals nam, geymaſt ſo Grande ei mætte. Sichems og Millo ſierhvor Mann, ſo til Kongs Abimelech vann, hylla med ſogdum Hætte.

4. Sem Jotham þeſſu ſagt var fræ, ſo geck hann Fiallſins Griſim æ, Hvirfileñ þañ hinn hærſta, hroopade og ſagde: Heyred mier, af Hwſe Sichems Menn aller, ad Gud heyre ydur nærſta: Skoogar-Tren villdu fegen frij, ſæ ſier einn Kong og ſogdu þvi, til ſeita Vidſmiors Vidar: Øll vier þig kiooſum ad þu ſiert, eigenn Konungur vor og bert, yfir oſs utan Bidar.

5. Andſvoren Vidſmiors-Vidar-Grein, valde Triænum ſoleides ein: Skal Feite mitt forlæta, og ſveima yfir yckur hier? O nei! ſoddann ſie længt fræ mier, af hreint i allañ Mæta. Trien i Skoogenum tala beint, til Fykiutreſins: (ſem er greint) Þig kiooſum Kong vorn heita. Af Fykiu-Vid komu Andſvorinn: Ad yfirgefa Sætleik miñ, þvi giore eg þvert afneita.

6. Sitt hneigdu aptur Tal i tie, tijdtneſndu þeſſe Skoogar-Tre, til Vijn-Vidarens væna: Kom þu, og vert oſs Kongur hiæ. Kuñe Tred aptur ſvara þæ: Skal eg ſo reyndar ræna, mig mijnu Vijne ſiælſt i ſenn, ſem gledur bæde Gud og Menn, og Triænum yfir vera?

Vid

Vid Þyrne-Bwskenn þa hvort Tried, þar i Skoogenum segia ried: Vor Kongur vertu og Herra.

7. Þyrne-Bwskurenn þa so tier: Ef þad er vijst ad gyrnist þier, eg smyriest Kongur ydar, skunded under minn Skugga þa, Skiool og Traust yckur þar ad sa, oll samann utann Vidar; Enn ef þid vilied ecke þad, af Þyrne-Bwskinum i Stad, Elldur med Ogna Reide, wtkome senn, (þvi sw er Von) og Cedrus Trien i Libanon, uppbrenne og foreyde.

8. Hvert hafid þier nu hondlad riett, og hier med erliga tilsett, til Kongs þann ydur taka, Abimelech Ambattar Son, er ætte i Sichem Gedeon, er Brædur sijna æn Saka, æ Steine deyda alla ried, einnenn hafid þier gleymt þar med, Myskunsemd Gedeon giora, hvor þo Ovina Hondum af, hafdi ydur leyst og Frelse gaf, mun þetta vel giort vera?

9. Sie þessi ydar Athofn oll, erlig og so riettlæt giorvoll, þa nu æ þessum Deige, fagni Abimelech ydar Gied, ydur hann fagne lijka med; Enn ef þetta er eige, af Abimelech wt med Hrad, Elldur kome so Menn i Stad Sichems og Millo meide; Sijdann Millo og Sichem fra, senn kome kome Baal og Elldur þa, og Abimelech eyde.

10. Ord sijn Jotham þa enda fer, æ burt flyde og geck til Beer, sijns Broodurs Bræde vegna. Sem Abimelech Areñ þriw Israel

 hafde

hafde stioornad nu, DRottenn þa upp namm egna, einn Sundurþyckis Anda þar, i Sichems Menn, so hvor einn var, Abimelech a moote, um hanns Vanart og Illsku þa, er sijnum Brædrum framde a, bryxla med Heiptar Hoote.

11. Launsaatur eitt þar lyndisþver, Lijdur i Sichem giorde sier, esst a þvi Fialle eina, ræntu alla Umreisendur, Rykte slijkt Abimelech spur, Art þeirra Illsku Greina. Med sijnum Brædrum Sichem til, Son Ebeds Gaal kom þad Bil, a hann þeir aller treystu, Vijnber af Okrum safna sijn', sijdann pressudu wr þeim Vijn, og Dryckiu-Dans uppreistu.

12. J Hws sijns Afguds inngengu, aatu, drucku og formæltu, Abimelech þar iñe. Hier nærst Gaal þa hermt so fieck: Hvor er þesse Abimelech? Hvad er Sichem i Siñe? Þeim Undergefins Æru ria? Er ei Son Jerub-Baals sa, hvor Sebal sinn Þenara, yfir Foolk Hemors so med Sann, Sichems Fodurs hier skipa vann, ad vera eiñ Stioornara?

13. Gud giæfi være þesse Þiood, Þioonar mijner so fenge af Mood, Abimelech wtrijma: Sebul þa Ord hanns fregnar fliott, fyllltest af Reide og sende skiott, þa a Laun þennann Tijma, Abimelech Bod so til Sanns: Sia þu! Gaal og Brædur hañs, i Sichem eru nwna, inne, og hafa allann hier, uppæst Stadenn a moote þier, vertu med Vorn tilbwna.

14.

14. A Naattar-Þele þig upptak, med þijna Menn i Leynie vak, wte hier a Morkiñe, þa yfirfall so þannig strax, þegar i Ottu sneiña Dags, Sigurenn so þu vinner; Eñ ef Stadnum þeir wtaf ga, epter sem Honden þijn uppa, þenker, maatt þu þeim giora. Enn Abimelech æred fliootf, i Launsatred þa somu Noott, foor og þar villde vera.

15. Gaal þañ Morgun gaunga red, greidt af Ports-Dyrum Brædrum med, uppleit og sijdann sagde: Foolk kemur ofann Fialled þar. Fliootlega Sebul gaf Andsvar, þetta þegar ad Bragde: Skuggenn Fiallsins þad eflaust er. Aptur Gaal þa segia fer: Giorla sie eg hvar hefur, Foolk hier ad nedan Ferda Reik, fra þeirre stooru Tofra Eyk. Sebul þar Svar til gefur.

16. Gior sie eg Sannleik greiner þu; Gaal! Hvar er þinn Muñur nu? Hvad er orded af honum? Hvor adur fyrre hermt so fieck: Hvor er þesse Abimelech, ad honum aller þioonum? Hann er þetta og Fylgd hanns frijd, fardu og haldtu vid hann Strijd, þu og so þijner Brædur. Af Sichem þegar arla Dags, Abimelech a moote strax, Gaal wtgaunga rædur.

17. Abimelech þa helsloo hardt, eñ hrakte a Flootta Gaal snart, Sebul sijdann an Tafa, wtrymde Gaal epter þad, og hanns Brædur af Sichems Stad, þar Vist ei þordu hafa:

hafa: Komande Dags ad Morgne Menn, i Morkina gengu af Stadnum senn, þetta var kunngiört þegar, Abimelech, enn hann med Hrad, Hereñ i Flocka skylde ad, Launsæturs Leid geck Vegar.

18. Allskaña hann þar ætte Bid: Ut sæ hann gæanga Borgar-Lid, reys þeim ramliga æ moote, ad Borgarhlide allt þæ sloo, enn hañs tveir Flockar hiner þo, dræpu med Heiptar Hoote, Menn þar sem voru æ Morkeñe, margur til Heliar nidur hnie, æ Stadenn strijda næde, Abimelech med Orku Praut, og hann ad Vélle nidurbraut, yfer þar Sallte sæde.

19. Lijdur Sichems miog Feigdar-fws, æ Floetta Afguds sijns i Hws, inn þegar allur vende: Abimelech þvi iñt var fræ, uppgeck hann Fiallid Zalmon æ, med Oxe einn i Hende, og af Trenu þar einn hioo Kvist, æ Bak sier lypte og sagde vijst, vid hvorn sem hiæ nam vera: Adferd þæ brwked einu þier, eins og mig sæud giora hier, eins skulud aller giora.

20. Einn Kvist af Triæunum hioo þæ hver, Hermadur Abimelechs sier, og filgdu epter honum, bæru þad krijngum Kastalann, kveiktu upp Elld og brenndu upp hann, Karlmonnum med og Konum, hvort ed var nærre heil Þwsund. Hann foor þar epter uñ þad Mund, æ Thebez hardt ad heria, uñ sijder hana yfervañ, utann i Stadnum Turninn þann, Foolk hvadann foor sig veria.

21. Abimelech med allt sitt Lid, ad þessum Turne Brennevid, bar nu og Bruna æsde, kastade Brote af Kvarnar-Stein, Kvinnan med Hende af Mwrnum ein, at hanns Hofud þvi hæfde, so ad Hausskelin sundurbrast, sinn Skialldsvein Abimelech hast, kallade bratt og beidde: Drag wt þitt Sverd og drep mig nu, dauf so ei ræmest Fregnen sw, ad Kvina ein mig deydde.

22. Hann strax Sveinenn helstwngid fieck, hrepte Dauda Abimelech: Þegar nu þetta lijta, hanns Fylgdarmenn, þeir hverfa fra, heimleides aller geingu þa, hvor sijns Heimkynnes vitia. Og DRottenn þannenn endurgallt, Abimelech hvad giorde hann allt, illt vid sinn Fødur frooma, sem og Drap Brædra sinna tied, Saarbæner Jothams lijka med, at Sichems Menn so liet koma.

23. „ O DRottenn hærstur Himnum á!
„ Herrum oss ógudlegum frá, hlíf þú á
„ Heimsins Grundu, sem eins og Refur
„ innlædast, allteins rikia og Leon hast,
„ enn deya eins og Hundur. Upphlaup,
„ Þvermódska, Ohlíðne, alldreie hiá oss
„ framenn sie, sem afla allskyns Nauda;
„ Gef oss med Fride og Gudrækne, gánga i Hlídne og Meinleyse, so ødlumst
„ sælann Dauda.

# 10. Psalmur.

Umm Dómara Israels 1) Thola, 2) Jair, og 3) Israels Barna Plágan af Philisteunum vegna sinnar Afgudadyrdkanar.

Ton, Sá friáls vid Løgmál fæddur er.

Abimelech þaa hafde Hel, hreppt medur Glæpa Safne, enn foor ad hiálpa Israel, einn Madur Thola ad Nafne.

2. Kynþætte Isaschars komenn fraa, kalladur Sonur Pua, Fiallbyggdum hann Ephraims aa, i Samir giorde bwa.

3. Um̃ full tuttugu og þriw Ár, Israel dæmde gladur, siidann burtdeyde Soomaklaar, i Samir var jardadur.

4. Epter hann Jair uppreis þaa, af Gilead med Priide, um̃ tvenn ellefu Árenn saa, Israels dæmde Liide.

5. Priaatiju aatte Sonu sier, seiger þad Skriften friida, þeir Ásnafolum þriaatijger, þar giordu aller riida.

6. Jafn marga Stade hafde hann, heima i Gilead alla, hvar ed Jairs Þorp heita van̄, og Heimurenn maa kalla.

7. Epter þad Jair andadest, og var i Kamon grafinn, Afgudadyrkan æsde mest, Israel Blindne vafenn.

8. Astaroth, Baal, Ammons God, og Moabs dyrdka nadu, siins DRotteñs þañig

brutu Bod, Bodord hanns yfertraadu.

9. Reidi DRottenns Jſrael ꝏ, af þvi gramdeſt hin ſanna, under Hendur hañ wtgaf þꝏ, Ammons og Philiſteanna.

10. Þvingan og Plꝏgu i ꝏtiꝏn Ar, Jſraels veitte Lijde, Honden Ovina Heiptarſꝏr, med hordu Prældooms Striijde.

11. Hellſt þo Jſrael hvor ed Byggd, hinns Vegar Jordan nꝏde, i Gilead fyrer utann Hrygd, Amorita ꝏ Lꝏde.

12. Yfir uñ Jordan ædisgriñ, Ammons Born heidenn fooru, Júda, Benjamin, Ephraim, ꝏſtrijddu og þvijnga vooru.

13: Þegar nu Plꝏgan þeſſe hꝏ, þvijnga Jſrael nꝏde, dyrſtann þeir hroopa DRottenn ꝏ, DRottenn þeim Andſvar tꝏde.

14. Hefur ſo nockur heidenn Þiood, hardliga plꝏgad ydur, ad ei haſe mijn Giædſkan good, giort ſtrax Hiꝏlp Bæner vidur.

15. Samt hafid þier mier fallid frꝏ, og ſylgt Gudum Heidingianna, þar fyrer ydur ei vil tiꝏ, wr þeſſu Hiꝏlp ad kanna.

16. God þeirra ſonnu ſieu þvi, ſiꝏlf nu af Stad farande, Hrygdar-Tijd ydar hardre i, Hiꝏlp ydur til-lꝏtande.

17. Jſrael DRottne aptur tier: Ydrande Hiarta og Munne, vier hoſum misgiort mooте þier, mꝏdur Synda Ydiunne.

18. Verde ꝏ oſs ad vijſu nu, Vilie þinn Þægelege, enn ad eins Myſkun audſyn þu, ꝏ þeſſum Hryggdar-Dege.

19. Fra sier Afgudum fleigdu braatt, framar þeim ecke skeittu, DRottne þioonudu Dag og Naatt, DRotteñ þeim Myskun veitte.

20. „ Ammons Born samannsafnast vel,
„ so i Gilead prwder; Enn þaa i Mizpa
„ Israel, allar sette Herbwder.

21. Wdstu Gileaditar þar, alykta: Hvor sa Madur, Orustu fyrst sem uppbyriar, Ammons moot Bornum hradur.

22. Hofudsmadur einn heita skal, hañ yfir oss med Prijde, fästmælum þetta fromdu Tal, fyrer Israels Lijde.

23. „ Hollds Vild og Heimur Afgud er,
„ er eg vil Þiónkan syna, syna þó alldrei
„ Myskun mier, mier byriar þeim ad tína.

24. „ Ydranar gef mier Anda þinn, af
„ iñsta Hiarta og Siñe, þá muntu DRot-
„ teñ milldur miñ, myskuna Grátbeidniñe.

25. Send mier, O GUd! þá sæta Náð, Syndanna Ydiu ad hafne, fyrer mína so Frammfør Ráð, farsæla i JEsu Nafne.

# II. Psalmur.

## Umm Jephthah Dómara Røllun, Sigur og Heitstreinging

Ton, JEsus Christur ad Jordan kom.

Jephthah Gileadite einn, ein var Strijds-Hetia a Lande, laungetenn Gileads sa var Sveinn, enn sem

hanns Kvinna nædе, fleire Born honum fæda enn, fullvaxen vær þau heita, wtræku Jephthah og ſogdu ſenn: Sijſt þarftu Arfs ad leita, a vora Ættar-Reita.

2. Sijnum Brædrum hann flyde fra, og foor i Tob ad bwa, ad honum dreif þar allmargt þa, Umhleypings Manna Grwa, hvorier wtdroou honum med; Hier epter nockrum ſinnum, a Iſrael heria otæpt ried, Ammons Born heiptar ſtinnu, Bardaga von i Vinnu.

3. Þegar um Stunder þad vid liek, þanka ſijns Aform rækia, Flockur Olldunga Ferdum viek, fra Gilead Jephthah ád ſækia: Mwklega vid hann mæltu þa, med Ordum vinſkapsgiornum: Vor Hofudsmadur vertu oſs hia, vier ſo gegn Ammons Bornum, voga kunnum Mootvornum.

4. Olldwngum Gileads ſialfur ſenn, ſvarar Jephthah an Tafa, hvort erud þier ei þeſſer Menn, þeir fyrr mig hatad hafa, fordum og burt mig feingud þier, af Fodurs Hwſe hriadann, enn nwna komid aptur hier, af þvi ad Neyden brada, þvijngar ydur margþiada.

5. Þar ſtrax a moote þvilijk Svor, þeſſer Olldwngar greida: Til þijn vier ſlijka forum For, ſwſliga þig ad beida, ad Hofudsmadur yrder nu, i Gilead med Prijde, fyrer oſs ſijdan ſærer þu, fullhugadur i Striide, a moote Ammons Lijde.

6

6. Jephthah heim aptur svor Osein, soleides giorde inna: Ef DRottenns lætur Hiælpen hrein, Hond mijna Ammon vinna, þa syrer ydur fer i Striid, Fiandmanna moote Lide, skal eg þa alla Æfi-Tijd, ydar Hofud i Fride, heita med Sooma Side.

7. Aller samrooma ansa þa, Olldwngar Gileads Landa, hærstur GUd Tal vort heyre a, hier ef ei laatum standa, eins og þu hefur sialfur sagt: Siidann Jephthah til Vegar, For sijna med heim framde spakt, Foolked hann giorde þegar, Hofudsmann hradt an Trega.

8. Jephthah fyrer DRottne um̃ þad allt, i Mizpa giorde tala: Sialfsum Kong' Ammons sende sniallt, sijn Ord þegar an Dvalar, honum liet segia hvad villt þu, hafa med mig ad giora? Med Ofrid seilest a oss nu, oss laattu kyrra vera, ei þarftu a oss heria.

9. Ammons Konungur Andsvor kyr, aptur sende til baka: af þvi Jsrael adur fyr, under sig giorde taka, mitt Land, er foor af Egypto, fra Arnon beint an Vasa, allt ad Jabok og Jordan þo, jeg bid, aptur an Tasa, med Frid laat mig þad hafa.

10. Jephthah baud aptur, einardlig, Ord mijn þau Konge veked: Eckert Land hefur under sig, Jsrael fra hier teked, hañ þegar burt Egypten af, Eydemork gegnum vende, rietta Leid gegnum rauda Haf, reiste ad Kades-Lende, Edoms Kong' sijn Ord sende:

11. Leif mier i gegnum Land þitt För. Lijdenn hann heyrde eige; Israel Moab sonu Svor, sende og bad um Vege, liwsur i gegnum Landed hans, lijka þvi synia næde, Moabitanna Lofdwng Lands, Lijdur Israels tiærde, þaa Dvøl i Kades þæde.

12. Eydemork ferdast i so red, um krijng þau Londen bæde, Edoms og Midia Moabs med, Menn Israels (eg ræde) og so komu þeir austannverdt ad Moabita Grundu, hiaa Arnon reistu openbert, upp sijn Landtiolld þaa Stundu, Sihon Kong sijdann fundu.

13. Hinns sama einnenn Sihon þaa, sem hina Konga fordum, um Leid i gegnum Land hanns faa, med liwsum beiddu Ordum. Enn þeim tiltrwde ecke hann, i gegnum Land sitt fara, helldur safna Herlide vann, hraustur med Akiesd snara, aa moote Israels Skara.

14. Med dijrre Magt og Dardseind af, DRottenn Israels goode, sijnu Foolke þa sialfur gaf, Sihon Kong og hanns Þiooder. So inntooku þeir allt þad Land, Amoritanna Lijda, fraa Arnon sijna under Hand, ad Jabok Fliote strijda, og Jordan, Eign miog vijda.

15. Svo wtrak DRottenn einn þeim fraa, Amorita Flock Sveita, og þu villt samt inntaka þaa: Inntoku þeim maatt veita, er wtrijmdu Camos Afgud þinn, enn vier sialfer giorvalla, þaa sem volldugur vor DRottinn, ad Velle liet þar falla, eignast vilium vier alla.

16. Eda meinar þu ædre Von, eiger og Riettenn nyta, helldur enn Balak Zipors Son, sa Kongur Moabita? Hve nær striidde hann Israel at, Ar þriw Hundrud sem byggia, i Hesbon giörde og Arnon hia, O! þvi ei fyrr redst byggia, þa med Frid þier ad tryggia.

17. Misgiort hefe eg ei moote þier, mier illt samt villtu giora, Israels mille og Ammons hier, ædstur dæme vor HErra: Enn þesse Kongur Ammons siist, Ord hanns þau heyra villde. Ædstur kom DRottenns Ande viist, yfer Jephthah af Millde, so reiste hinn Rausnar gyllde.

18. Gegnum Manasse og Gilead, geck hann og Mizpæ Vega, og so fra Mizpa epter þad, moot Ammons Bornum þegar. Og Jephthah DRottne eitt vann Heit, efalaust þad tillagde, ef þu gefur Ovina Sveit, i mijna Hond (hann sagde:) Þa skal eg brædt ad Bragde.

19. J Brennefoorn þvi offra þier, er wtaf mijnu Hwse, fyrst kiemur til ad mæta mier, med Frid þa heim eg reise. Og Jephthah moote Ammons Lijd, ad Hreyste og Sooma vendur, diarflega siidañ droo i Striid, DRottenns Allmættur kienndur, wtgaf þa i hanns Hendur.

20. Harla stoort Slag so hann sloo þa, Heidingia urann Bidar, allt til Minnith Aroer fra, ad Sliettlende Vijnvidar, heilar Borger

Borger tuttugu Tals, tel eg þad Ritning ſaña:
Þannig audmijkteſt þar til alls, Þiooden Am=
monitanna, fyrer Mwg Iſraels Manna.

21. Jephthah til Baka ferdaſt ſws, framar
ei giorde ſtrijda, ſitt med Frid aptur heim i
Hws, hanns einka Dootter frijda, mæt hon=
um þar a moote rann, med Dans og Slaatt
Hlioodſæra, eingenn Born fleire aatte hann,
utann hana miog kiæra, Hrygd nam hanns
Hiarta ſæra.

22. Þegar hann hana ſiaalfur ſaa, i ſundur=
reif ſijn Klæde: Oho mijn Dootter! Hañ nam
tiaa: Med Harma þwnga Mæde, hvad beiger
mig og hreller þu? Hef eg ad ollu leite, minn
DRottne upplaated Munnenn nu, med einu
viſſu Heite, þvi ſem eg ſijſt um̃breite.

23. Hafer þu Fader, hun þaa kvad: Heit
DRottne giort ad vanda, efunarlauſt i ollu
þad, obrygdult laattu ſtanda, fyrſt ad DRott=
enn þijn hefur hier, hefnt a Ovinum ſijnum,
Freſt þo tveggia Maanada mier, maatt gefa ad
Vilia þijnum, ſo med Leik=Syſtrum mijnum.

24. A Fiallenu graate eg Meydoom̃ minn.
Mijn Dootter far, hann ſagde: Enn nær ſw
Tijd var um̃lidinn, aptur kom hun ad Bragde,
flootlega til ſijns Fodurs þaa, Fyllingu Heit=
ordanna, hann þegar efnde henne a, hafde ſw
alldrei Manna, kiendt (ſo ſem Ritning ſannar.)

25. Þetta giordeſt Sidvenia vel, vijſt hiaa
Iſraels Menge, aarlega Dætur Iſrael, a

Fialled ſagt er genge, Doottur Jophthah af Gilead greidt, ad græta Mey ſo friida, hvort Ar Daga fioora ſamfleitt, (Fræden heilog þad þijda.) Þier ſie Lof Þrenning blida.

26. „ Athugalauſum Ordum frá, og
„ Eydum mig bevara, eg hef vid Skírnar
„ helgann Sá, heitiſt mínum Frelſara;
„ Veittu mier æ ad efna þad, offrande á
„ hvørium Dege, Gyrnd minnar Sálar
„ gediaſt ad, GUd minn, ſo þier vel mege:
„ Hoſanna! eg hier til ſege.

# 12. Pſalmur.

Umm Ephraims Oſigur og Dómarana: Ibzan, Elon og Abdon.

Ton, Snú þú nú aptur enn til Hvíldar Onden m.

Ephraims Lijdur ſamannſafnaſt ſo æ ny, til Nordurs ganga nædu þvi.

2. Siidann vid Jephthah Svor þeſskonar ſøgdu nu: Hvar fyrer drooſt i Hernad þu.

3. Ammonita ſo wt ga moote illum Her, ad þu ei kalla oſs villder?

4. Hvar fyrer vor ſkal Honden þig til Heſnda fws, uppbrenna nu og allt þitt Hws.

5. Anſar þeim Jephthah: Eg og mijner aller Menn, Prœttan vid Ammon œttum ſenn.

6. Og eg kallade ydur œſamt ødrum viiſt, til Fulltijngis enn foorud ſiiſt. 7

7. Þegar eg vïsse ad voga ei ydar villdud Ond, Sæl mijna eg mier sette i Hond.

8. Oruggur med þad wt eg foor og eflde Strijd, aꝗ moote Ammonita Lijd.

9. Dijrmætust gaf so DRottenns Hiælpar Dyrden hæ, i mijnar Hendur alla þæ.

10. Og þvi komed þier upp til mijn nu aller hier, ad hefia Strijd æ moote mier?

11. Enn Jephthah samannsafna ollum so med Hrad, giorde Monnum i Gilead.

12. Vid Ephraim so beriast beint og brædt helslæ, Gileaditar giordu þæ.

13. Af þvi þeir hofdu ædur Skamar-Ord-Toon þan, gloosad um sier hvorn Gileads Man.

14. Ephraims medal og Manasse erud þier, sem Flootta-Drenger fæwijser.

15. Flockar Ephraims fwsir sogdu æ Flootta-num: Læt mig fara hier yfer um.

16. Gileads Menn þæ giordu spyria grein oss nu: Ert af Lijdum Ephraims þu?

17. Enn hann gegnde þeim aptur fliott, og innte Nei, af þessum Monnum er eg ei.

18. Þeir skipudu honum skijrt ad nefna Schiboleth; Enn hann sagde þæ Siboleth.

19. Ei sem byriade Ord þad nefnde æ þar Leid, hvar fyrer hann þeir hnepptu i Deyd.

20. J þann Tijd fiell af Ephraim (sem innt er hier,) riett þrennar fioortæn Þwsunder.

21. So dæmde Jephthah sinn Jsrael sex um Ar, sijdann andadist Sooma hær.

22. Drendur var af Israel so epter þad, grafinn i Stadnum Gilead

23. Epter hann dæmde Israel sa Ibzan hiet, af Bethlehem (sem um eg giet).

24. Arsa Þriatiju Ibzan þesse eiga vann, eins margar Dætur wtgaf hann.

25. Einnem Þriatiju ad utann took (sem innt er fra) Dætur til Sona sinna þa.

26. Um sio Ar dæmde Israel, og andadest, i Bethlehem greidt so greftradest.

27. Elon Doomare epter hann kom Weru haar, trwr dæmde Israel tiju Ar.

28. Siidann burtdoo af Sebulons Kyne sa Elon, og var grafinn i Ajalon.

29. Israels Doomare epter hann hiet Abdon þa, Hillels Sonur var Herra sa.

30. Sa fiorutiju Syne eiga siaalfur red, Þriatijge Sona Syne med.

31. Siotiju ridu Asna Folum aller a, átta Ar dæmde Israel sa.

32. So burtkalladest sa Abdon fyrer sælann Deyd, honum var valen Greftran greid.

33. Epter Plagsid i Pireathon med Prijde þa, Fialle Amalekita a.

34. „ Opt fylger Láne, Øfund, Mæda
„ og Adkaz, en Rauner alldrei Bryxle braz.

35. „ Af Túngu marga tídum þekkiaz trú-
„ um vier, gódur Madur þvi gott framber.

36. „ Send þú oss, DRottenn! Sigur,
„ Hiálp og sæla Vørn, farsæl vort Stand
„ og blessa Børn.

# 13. Psalmur.

Umm Getnad og Fædingu Samsonar.

Ton, Fader vor sem á Himnum ert.

Hvar epter Abdon andadann, Israels Lijdur fremia vann, ad moote DRottne allsheriar, Illgiørd og Synder margfalldar, fiorutiju Ar hann framgaf þa, Philisteanna Vallded a.

2. Zarea byggde sa einn Mann, sem ad Manoah nefnast vann, Ettkvijsl Dans komenn af var sa, (oss þvi Ritningen skijrer fra) eina hafde sier Egta-Frw, Obyria var hanns Kvinnan sw.

3. Þa bar so til umm þetta Mund, þægre Guds Engell hijr i Lund, Manoah Kvinnu byrtest blijdt, blijdur vid hana sagde þijdt: Kvidug skallt verda og fæda frijd, fagrann Son einn a rettre Tijd.

4. Rak-Knijfur skal hanns Hofudhaar, hverge skierda, þvi Sveinninn klaar, Nazareus GUds nefnast a, Naudum Israel leysa fra, fordast þvi Vijn freklega vijst, Fædu Ohreinnrar neyttu sijst.

5. Sinn Boonda Kvinnan sijdann fann, sagde honum umm Atburd þann: GUds Mann med Engils Asynd hreinn, opennberast mier giørde einn, Heite frietta eg hann ei ad, hann mier og ecke sagde þad.

6. Sa same vid mig sagde sniallt: Sicá Sliett þu nu verda skallt, og Son þier fæda epteræ; af þvi med Vareyqd þar til sia, asseinga Drycke alla og Vijn, alldrei berer ad Minne þijn.

7. Nie af þeim Mat sem Ohreinn siest, ad þu neyter, þier forda best, GUds Nazareus þvi ad þinn, þesse skal vera Sonurinn, fra Moodur-Kvide, og so allt; Jñ til sijns Dauda: Þvi behaldt.

8. Manoah DROTTENN blijdt þa bad: Blessade DRottenn veit mier þad; GUds Mañ þennann vid getum sied, glogglega vorum Augum med, oss sem þu sendir ædur fyr; Andsvara hanns so leitad, kyr.

9. DRottenn bænheyrde hañ i þvi, hañs Kvinnu byrtist eiñ a ny, Engill sa fyrre um eg gat, a Akre nockrum Kvinnan sat, og hun foor þegar Flijte med; sann sinn Boonda og segia red:

10. Þa med Kvinnne þangad gieck, þijdur Manoah, og spurt so sieck: Ertu Madur sa same hier, sem vid Kvinnuna talader; Aptur honum hann ansar þa: Eg er hinn same Madur, Ja.

11. Manoah aptur inner nu: Ockur bid eg ad seger þu, þegar fullkomnast þetta allt, þu sem vid hana mælter sniallt, hvoria Framferd og Jdiu a, aminstur Sveinn ad hafa þa.

12. Engellenn svara aptur vann: Alla þa Hlute varest hann, sem eg Kvinnunne sagde fra,

sa sterkann Dryck ei taka maa, allteins hegde
sier wngur Sveinn, og eg tiaade henne Lindis-
hreinn.

13. Manoah Eingil mælte vid: Mig laat
þier halda þess eg bid, ad Hafur-Kide einu
hier, offra mætte eg fyrer þier. Engellenn
honum ansad gat: Ecke neyte eg af þijnum Mat.

14. Ef þu vilt giora Offur frij, offra maattu
þaa DRottne þvi, enn Manoah ei þeckte þar,
þetta einn DRottinns Engell var; hann spyr
þess vegna ad Heite fyrst, honum Engillenn
svarar viijst:

15. Hvad spyr þu mig ad Heite frekt, hier
sem ad er þo Undarlegt. Hafur-Kid og Mat-
Offur med, Manoah sijdann taka ried, yfir
Stein DRottne i Offur bar, undarlega þad
geck til þar.

16. Þegar ad Lopted lagde i, Logann af
Stein-Alltare þvi, upp med honum GUds
Engell twr, Augsyn þeirra foor burtu wr, eñ
þau fiellu af Felmtre þaa, fram̃ til Jardar sijn
Andlit aa.

17. Hræddur Manoah herma red: Hosum
vid GUd ad viijsu sied, med ockar eigenn Aug-
lite, efflaust mun oss þvi Daudann ske. Eñ
hanns Kvinna med Andsvor flioot, aptur hon-
um þar gegnde aa moot:

18. Hefde Gyrnd DRottenn haft aa þvi,
Heliu ockur ad færa i, munde ei Offur þetta
þaa, þægilegt hafa tekid sa, eda kunngiordt

 þad

Þad ockur med, allt sem heyrdum, og nu er sked.

19. Sijdan Öl Kvinnan Sveinbarn eitt, Samson hanns Heite nefnde greidt, upp med Forelldrum alast vann, Ande DRottenns took frama hann, i Dans Herbwdum eslaust þa, Esthaol mille og Zarea.

20. Ædste Ráds Engell O! JEsu, Auglite þinu til min snú, Frid, Nád og Blessan bode mier, betst þin Nálægd i Verølld hier, þegar eg DRottenn þig sæ sied, þá hef eg Lif og Sælu med.

21. Gllds Nazareus helgur hreinn, hreinaste JEsu þú ert einn, einn Naudhiálpare og Frelsun frid, frida Rettlætes Sólen blid, blid þin Asiána er Sálu sæt, sætust Lifgun og Heill ágiæt.

# 14. Psalmur.

Umm Samsons Greyste á Leonenu, og Rádgátu i sijnu Brúdkaupe

Ton, Dagur i Austre øllum.

Samson sem gløggt skal greina, geck burt ad Thimnat þa, af Philisteum eina, wnga Kviñu þar sa; Sijnum Forelldrum segia, satt af þvi ollu fer, mier þocknast þesse Meya, þa sonnu gefid mier.

2. Andsvar þad sliott tilfinna, Fader og Mooder hanns: Er þar nu eingen Kvinna, i þijnum Brædra Krans, ad ecke helldur eiger, eda hiaa Foolke þijn? Samson þaa aptur seg-er: Sw þocknast Augum mijn.

3. Gloggt hanns Forelldrar goodu, (greina so Ritningar), ecke þad underſtoodu, af DRott-ne soddann var, ad hann Orsakar leita, aa-sette fyrer þvi, Pfer-Raad ofhord veita, Js-rael Philistæi.

4. So ofann sinnar Leidar, Samson og Hiponen blijd, til Thimnat Gotur greidar, gaanga aa somu Tijd, nær vijkia Vegreis-ande, Vijngarde Thimnats hiaa, wngt Leon eitt greniande, aa moot þeim kemur þaa.

5. Samson þaa siaalfs Giids. Ande, sæll yfirkoma ried, so hann þad saart oskrande sundursleit Leoned, varnarlaus hardt med Hende, sem Hafur-Kided eitt, sijna Leid so framvende, sagde ei af þvi neitt.

6. J Thimnat sliott þau fundu, Forelld-ra Stwlkunnar, Trwlosun bradt þar bundu, Brwdar og Samsonar; Hann bwinn Braut-er frijdar, heinleides heimreiser, faam Dog-um settum sijdar, sitt Brwdkaup halda fer.

7. Um Leid nær ofannreiste, af Vegenum sier braa, Samson og lijta lyste, Leons-Hræ-ed sitt uppaa, Biflyge og Hunang betsta, Bwk-num Lioonsins saa i, aa hvoriu Hond ried festa, hann og neytte af þvi.

8. Svinnum Forelldrum sijnum, sier med haun lijka gaf, Hunange af furdu sijnu, er feck Leons-Hræenu af; Þess neyttu broadt ad Bragde, bæde tvo i þeim Stad, enn hann grand ei til-lagde, af hvoriu took hann þad.

9. Brwdkauped sitt til Svanna, Samson nu helldur þar, allteins og wngra Manna, altijdur Hœttur var; nær Fremd hanns feingu siena, fram honum gœfu œ Balld, Lagsmenn þrœttiju ad þena, þijdt mz Virdingar-Hald.

10. Samson vid sijna Sveina, sijdan giørde ad tiœ: Eg vil Rœdgœtu eina, ydkur nu segia frœ; Ef hennar reyndar retta, Rœdning wtskijred þier, sio Brwdkaups-Daga setta, so skulud sœ hiœ mier.

11. Tigenn-Klædnad Hœtijda, ad Tolu þrioatije, og Skyrtur einka frijdar, eins margar læt i Tie, enn ef þœ rœded eige, eins miked vil eg fœ, af sama Slags, og sege, sannlega ydur hiœ.

12. Lagsmenn hanns sijdann sogdu: Seig þijna Gœtu friœls, med Giætne þar næst þogdu, þœ took Samson til Mœls: **Matur fór af Etanda, og Sterkum Sœtleikenn**, sijst feingu af sodda Vanda, sagt Gœtu Rœdningenn.

13. Þœ i heila þriœ Daga, þeir hitta Samsons Frw, hier med þann herma Baga, henne, og sogdu nu: Locka þinn Boonda blijda, byrta þœ Gœtu þier, hana oss segdu sijdann, siœ, annars skulum vier. 14

14. Upp þig med Ellde brenna, og þijns Fodurs Hwſs Stad, hardra ſo Heſnda kenna, hliooter þu fyrer þad; Eda hvort var oſs hijngad, hellſt til þeſs innboded, i Armod þwngann þvijnga; þeſſum Utlœtum med.

15. Kvinna Samſonar ſeger, ſorgande til hanns greidt: Hatur enn Elſku eige, eſlauſt fær þu mier veitt; Rœdgœtu hermt þu heſur, hier Børnum Ættar mijn; hvøria mier tijdt þu teſur; ad tiœ iiied Rœdning ſijn.

16. Samſon þœ aptur inner: Ei hef eg ſagt þad hier; Fodur nie Moodur miñe, munde eg ſegia þier. Sio Daga hun ſorgande, ſat i Brwdkaupe þœ, þar til hanns þreyngdeſt Ande; þvi henne ad ſkijra frœ.

17. Enn hun þeim øllum ſagde, aptur þad ſtrax i Vil; Þeir ſijdann ſo ad Bragde, Samſonar mæltu til: Hvad er Leone hrauſtara? Hvad ſœtara Hunange? Þar til hañ þeim nam ſvara, þeſſe Ord liet i tie:

18. Ef hefdud ecke minne, ærid med Kvijgu þier, Gœtu þœ ſijſt ad Sinne, ſagt mundud haſa mier. Og Ande HErranns ædſta, yfir Samſon kom þœ, til Aſklon ofann nærſta, af þvi foor greidt ſem mœ.

19. Þar Menn þriœtijn deydde, þeirra took Klæda=Fans, og hinum aptur greidde, er riedu Gœtu hanns, hradlega af ſinne Hende; Hañ afar reidur vard, burt þvi frœ Brwde vende, brœdt œ ſijns Fodurs Gard.

20. Einum hanns Samlags Sveine, sw var hanns Kvina þar, gift. (Sem ad Skrisften greiner, glögglega og skijrt þar fra,) harda þad Hefnd nam boda, hvør framkom grimelig. Frá øllum Andar Voda, O GUD! bevara mig.

21. Sigurhøfdingenn hærste, hærstvirdte minn JEsu! Andar Brúdgumenn ædste, ædstann vannst Sigur þú, á Sathan Leone leida, Leid Himens kennder oss, Lifs-Skrúdann giørder greida, greidest þier Dyrdar Hnoss.

# 15. Psalmur.

Af þeim Skada er Samson giørde Philisteunum med Refunum og Asna-Kiálkanum.

Ton, Oss lát þinn Anda styrkia.

Hier nærst er hermt so skiede, um Hveite Kornskurdar Mund, swslega ferdast rede, finna sitt Egta-Sprund, Samson villde og sijdann ad, hennar Herberge vijkur, hugde ad ganga i þad.

2. Fliodsins vill Fader eige, sa honum þar innhyst, og vid hann sijdann seger: Sia þu! eg hugde vijst, ad reidur henne ordenn þu, munder; Þvi Vine þijnum, þessa eg gifte nu.

3. Hier nu i Kranse Kvenna, klien og frijdare er, hin yngre Syster hennar, hana taktu ad þier. Samson gaf honum aptur Ans:

Eg

